


III. Winnipeg, Man. Nr. 10.

# GILDI GAMLATESTAMENTISINS.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893.)

---

Framh.

Vér héldum, að þessum athugasemdum mundi nær lokið seinast, því vér lesum aldrei meira af fyrirlestri þessum en þörf gerist í einu, og vorum vér svo undurfegnir yfir því, að bráðum færi að styttast vaðallinn í þessum andlega aur, en nú sjáum vér, að því er alls ekki að fagna, — það er langur spölur eftir af aurkeldunni enn.

Nú kemur klerkurinn út hjá höf. fyrirlestursins. Honum ferst eins og köppunum í bardögunum forðum, hann kastar únítarismus öllum frá sér, eins og þeir köstuðu skjöldum á bak sér og óðu svo fram og tvíhentu sverðið eða kesjuna. Nú er hann orðinn sannarlega "rétttrúaður, og fer að vega, vér viljum ekki segja galdra, heldur gerninga þeir gömlu mannanna, Eliasar spámanns, sem einu sinni var í Dagsbrún getið, þegar hann var að kalla eld af himni, til þess að drepa sendimenn Ahasia konungs. Það er margt mórautt í þessari frásögu og sönnun klerksins.

Fyrst líkir hann þessari sögu við sögu þá í Lúk. (9, 52—56), er "frelsarinn þreyttur og vegmóður lætur lærisveina sína biðjast gistingar í þorpi einu samversku. En þess var synjað. Af þessu urðu þeir bræðurnir Jakob og Jóhannes, bráðlyndir eins og þeir voru, gramir, og spurðu hvort þeir ættu ekki að bjóða eldi að falla niður af himni, til að tortíma fólkinu, eins og Elias hafði gert. En frelsarinn ávítaði þá og sagði: Vitið þér ekki hvers anda þér eruð?" Þetta eru fyrirlestursins orð. En er það ekki skrítið, að klerkur-

inn skuli taka þetta dæmi, sem einmitt eyðileggur hann sjálfan? Sjáið nú: Postularnir vilja breyta að dæmi Elíasar, og biðja Krist, að kalla nú eld af himni og drepa alla þá. sem neituðu þeim um gistingu, rétt eins og Elías gerði, þegar hann drap með guðs hjálp sendimenn konungs. En þegar Kristur heyrir þetta, þá verður hann náttúrlega reiður og spyr þá: "Vitið þér ekki hvers anda þér eruð" Með öðrum orðum: að hugsa annað eins og þér hugsið bendir ekki á, að þér séuð af (innblásnir af) guðs anda. Það var vont og óguðlegt verk, sem Elías framdi, þér megið ekki láta yður annað eins til hugar koma. — Með viti er ómögulegt að fá annað út úr orðum Krists en þetta. Kristi ógnar svo þetta vonskuverk Elíasar, að hann reiðist og ávarpar lærisveina sína þessum þykkjuorðum.

En í stað þess, að kannast við þetta, reynir séra Fr. að breiða yfir þetta, fyrst með því, að segja, að konungurinn í Ísrael hafi ekki haft neitt vald eður myndugleika nema frá drotni; i öðru lagi með því, að segja, að spámaðurinn hafi verið settur yfir konunginn af drotni, og í þriðja lagi með því að segja, að hann hafi framið guðs boð, er hann drap hvern sendimannaflokkinn á fætur öðrum með eldi af himni. Hann var að sannfæra konunginn fyrir guð, en gat þá ekki gert það með öðru, en manndrápum.

Vér skulum nú skoða þetta sem snöggvast, og munum vér þá sjá, að höf. fyrirlestursins hvað ofan í annað eyðileggur þennan innblástur, sem hann ætlaði sér að verja. Það má líkja honum við Elías og segja, að hann hafi hér kallað eld af himnum, til þess að tortíma innblæstrinum. Því að fyrst lætur hann Jesúm Krist gera það þar sem hann fordæmir Elías; svo fer hann að halda því fram, að konungurinn í Ísrael hafi haft vald sitt af drottni, en þó er hann sjálfur þjóðveldismaður í þjóðveldisríki, þar sem þessu er hátíðlega neitað; svo kemur hann með það, að spámaðurinn hafi verið settur yfir konunginn af drottni, en stendur svo vitanlega uppi ráðalaus að sanna það. Og endahnútinn rekur hann svo á alt saman með því, að kannast við, að guð hafi boðið Elías þetta!

Allir einvaldir harðstjórar heimsins hafa æfinlega gert þessa kröfu, að þeim hafi af guði verið gefið vald yfir lífi og eignum þegnanna. Í því skálkaskjóli hafa þeir tekið eigur þeirra hervaldi eftir vild, og svift þá lífinu, oft og tíðum með öllu saklausa. Þeir hafa gert þetta til þess, að þegnarnir skyldu óttast þá og hræðast, til þess að þeim skyldi haldast uppi að féfletta þá og taka líf þeirra. Þegar konungsvaldið komst á hjá Gyðingum, þá fór þeim sem öðrum konungum, að þeir sögðust hafa vald sitt frá guði. En það er eins og

séra Fr. vilji aðgreina konunga í Ísrael frá öðrum konungum, því að hann segir: "Enginn konungur í Ísrael hafði neitt vald né myndugleika nema frá drottni." En séra Fr. veit vel, að þetta var viðkvæðið um allan heim. Höfundur fyrirlestursins veit það vel, eins og við hinir, að ein af hinum stærstu pólitísku framförum í sögu mannkynsins er sú, að þjóðirnar hafa öldum saman verið að berjast fyrir því, að svifta konungana valdi sínu, eða ef að klerkur vill heldur hafa það svo, að draga þetta vald úr höndum guðs. Þjóðirnar sem sé neita því, að guð hafi gefið konungunum þetta vald. Til þess að ná þessum rétti, hafa þjóðirnar háð blóðugar styrjaldir, og allir góðir menn hafa kallað þá frelsishetjur, sem best hafa barist fyrir því. Væri nú konungunum gefið valdið af guði, þá væru þeir allir hinir verstu menn, þeir Washington, Franklin, Victor Hugo, o. fl. Allar þessar hetjur, sem hafa varið lífi sínu, sem hafa fórnað blóði sínu til þess að fá þessu framgengt, til þess að efla velferð bræðra sinna, en hrinda harðstjórn og kúgun — þeir væru þá allir afhrak manna. Og það sem meira er: siðbótahöfundarnir á nýrri tímum, Luther, Zwingli, Melankthon og Calvin væru þá í sömu tölu, því að þeir vildu draga valdið úr greipum páfans. En páfinn hefir fremur öllum öðrum haldið því fram, að sér sé vald gefið af guði, jafnvel yfir öllum heimi.

Þá er hitt. Með hverju getur séra Fr. sannað það, að Elias hafi af guði verið gefið vald yfir, eða "settur yfir" Ahasiu konung? Hann hefir ekki snefil af sönnun fyrir því. Það getur hver og einn förukarl komið fram og sagt til konungs einhvers, sagt til forseta Bandaríkjanna til dæmis: "Kom þú nú og hlýddu mér, að öðrum kosti skal ég drepa þig." Þeir sögðu það um sjálfa sig, spámennirnir, að þeir væru af guði sendir, ég veit það vel, en sannar það nokkuð? Vér höfum ótal Krista nú á dögum, það er faraldur að þeim, rétt eins og það var faraldur að spámönnunum á dögum gamlatestamentisins, og eins og það var faraldur að djöfulóðum á dögum Krists. Þessir Kristar eru allstaðar, einn er nú í Texas, annar á Ítalíu og sá þriðji var fyrir skömmu í Minnesota, að mig minnir, Schveinfurth að nafni. Allir segjast þeir vera Kristar, komnir til að endurleysa heiminn. Þeir ginna þá sem eru nógu heimskir og laða skrílinn til sín með því, að kenna fjölkvæni og aðra ósiðu, og enginn vitiborinn maður trúir þeim. En sönnun þeirra fyrir því, að þeir séu Kristar, er engu minni, en sú, að Elias hafi verið settur yfir Ahasiu konung.

En svo kemur endahnúturinn, hinn guðdómlegi sannfæringar-

máti. Já, hann er ljómandi! Mikið skínandi fræðsluefni er hann á lúþerskum barnaskólum! Guð getur ekki sannfært með öðru, en að drepa. Fyrst eru hinir 50 sendimenn drepnir og höfuðsmaður þeirra (sjá 2. Kor., 1. 10), svo aðrir 50 og höfuðsmaður þeirra, en loks sleppur þriðji flokkurinn, en fyrir hvað? Fyrir það að hann beygði kné sitt fyrir Elíasi.

Það má segja, að það hafi verið dýrt spaug fyrir guð, að þurfa að drepa hundrað og tvo menn með öllu saklausa, til þess að sannfæra konunginn um það, að honum myndi nú ekki batna þessi veiki hans. Hvað gjörðu mennirnir annað, en hlýða boði konungs síns? Þeir ætluðu engan miska að sýna Elíasi. Séra Fr. segir, að þeir hafi átt að handtaka hann, en það er eins víst að þeir hafi átt að fá hann með góðu. Þegar hann loks fór með þeim, gjörðu þeir honum ekkert, og var hann þó búinn að drepa meira en hundrað félaga þeirra.

Það er annars merkilegt, að menn skuli ekki sjá það öfuga og siðferðisspillandi í þessari kenningu, að láta guð þurfa að sannfæra menn með morði og drápum! Er það fallegt? Eigum vér þannig að sannfæra hver annan? Þetta var sannfæringarmáti rannsóknarréttarins; þetta var sannfæringarmáti trúboðanna fyrrum. Mundi þessi sannfæringarmáti vera notaður í lútersku kyrkjunni, ef kringumstæður leyfðu? Ég held vér megum segja eins og séra Hannes sál. sagði svo oft: "Sjá er innviða svartur mann, sjáðu mörlandi við þeim pilti."

En mikil drottins sauðarhöfuð eru þeir, sem trúa því, að þessi saga hafi nú gengið svona til, sem halda, að Elías hafi virkilega getað gert þetta, að eldur hafi komið af himni ofan og deytt mennina! Þessi saga sýnir vel hugmyndina sem þeir höfðu um guð, að hann byggi uppi á þessari bláu hvelfingu, og þegar hann vildi rigna láta, þá opnaði hann hlera á himninum og hleypti þar niður vatni; að hann sendi niður eldingar og drepsóttir til að eyða og deyða. Hann var grimmur og harðvítugur guð, sem engum vægði. En að menn nú á dögum, sem eiga að heita upplýstir, skuli trúa þessu, það sýnir, að upplýsing þeirra er meira að nafninu en í rauninni. Þeim, sem svo eru auðtrúa, má segja alla mögulega hluti, og ég vil segja, að mönnum sé vorkun, þótt þeir vilji leiða aðrar eins skepnur í bandi, —þær eru ekki færar um það að vera tjóðurlausar.

---

# KENNINGIN UM GUÐDÓM KRISTS.

Kyrkjumennirnir, sem standa á því fastara en fótunum, að Kristur sé guð, segjast byggja það á rítningunni, guðs heilaga óskeikula orði. Þeir finna reyndar til þess, að þetta "óskeikula orð guðs segir ekki ætíð, að Kristur sé guð, heldur segir það einmitt miklu oftar, að Kristur sé maður; en til þess,að komast fyrir þessa mótsögn, taka þeir það fangaráð, að segja, að Kristur sé bæði guð og maður, þó að þessi orð og þessar hugmyndir, eftir eðli sínu, útiloki hver aðra. Eftir eðli sínu er guði ómögulegt að vera maður, eins og manninum eftir eðli sínu er ómögulegt að vera guð. Vér vitum nú, að ritningin er langt frá því að vera óskeikanleg eða áreiðanleg, og er því mesta fásinna, að byggja á henni skoðun sína um jafn mikilvægt trúarspursmál og þetta. Okkur kæmi t. d. ekki til hugar, að treysta biblíunni svo, að vér færum að gefa burtu allar eigur vorar, þangað til vér stæðum uppi í skyrtunni einni, og trúa því, að vér með því eina móti yrðum farsælir bæði þessa heims og annars. Hver sem það gerði, ætti með réttu að setjast á vitlausra spítala. En kyrkjumennirnir hallast þó að þessu og hálftrúa því, af því, að þeir hafa aldrei kjark í sér til þess, að hugsa út í það.

Nú skulum vér því taka þessar ritningargreinar og annað, sem þeir byggja á trú sína um guðdóm Krists, og sjá, hvaða gildi það hefir. Sannanir kyrkjumannanna greinum vér með rómverskum tölum, en svör vor með vanalegum tölum.

I. "Hann er kallaður Guð í ritningunni."

1. Guðir voru og kallaðir aðrir menn í ritningunni, (sjá Jóh. 10., 35.) Þar segir Jesús: "Ef ritningin kallar þá guði, til hverra guðs orð var talað, og ritningin getur ekki raskast." Þarna hafa menn það með Jesú eigin orðum, að ritningin kalli þá menn guði, sem guðs orð er talað til. Eftir því eru þeir guðir, Abraham, Ísak, Jakob, Móses, Jósúa, Sál, Davíð, spámennirnir, þær Elísabet og María, móðir Krists, og ótal fleiri. En þá fara nú að fjölga guðirnir. Þessi guðstign Krists er þá samskonar og guðstign þessara karla og kvenna. Vilja nú klerkar taka eigin orð Krists gild eða ekki? Ef að þeir gera það, þá fellur þessi guðdómskenning, en ef að þeir gera það ekki, þá afneita þeir Kristi. Fleiri eru staðir sem sýna, að menn hafa guðir verið kallaðir, svo sem 1. Mós., 3,22; 2. Mós., 4, 16 og 1. Mós., 6, 2, um syni guðanna o. fl. Sjá ennfremur V. lið.

II. Esajas spáir því, í 7, 14, að mey skyldi barnshafandi verða og son fæða, hann mun hún kalla Immanuel, sem á hebresku þýðir;

Guð með oss; og Matth. segir, í 1, 23, að spádómur þessi eigi að tákna Krist.

2. Fyrst og fremst er það, að deildar skoðanir eru um spádóm þennan hjá kyrkjunni sjálfri. Spámaðurinn spáir þar, að kona muni barn fæða, en í kapítulanum á eftir fer hann að skýra frá því, að hann sjálfur hafi komið til spámannskonunnar og hafi hún þunguð orðið og son alið. Hann vissi þá fyrirfram, karltötrið, hvernig hann átti að spá þarna. Nafnið á þeim sveini er reyndar annað en önnur einkenni hin sömu, n.fl., að landið skuli eyðileggjast áður en sveinninn komist til vits og ára.

Það sér hver maður, að hér er verið að tala um viðburð, sem á að ske mjög bráðlega og getur því alls ekki átt við Krist, sem fæddist mörg hundruðum ára seinna.

Í öðru lagi er það, að nafn eitt sannar ekkert; Jósúa þýðir t. d. guð frelsari, en það er þó langt frá því, að Jósúa sé guð eða frelsari. Vér getum sagt, að guð sé með oss, þegar vel gengur, og vér getum jafnvel kallað barnið vort "guð sé með oss," að sið Gyðinga, alveg eins og vér nefnum þau Jósúa eða María. Gyðingar lýstu þannig hugsunum sínum og tilfinningum í nöfnum barna sinna og sést það víða í gamlatestamentinu, (sjá 1. Mós., 25, 18 og Kron. 3, 10 og 7, 23 og víðar). Svo er enn eitt, að Kristur var ekki nefndur Immanuel heldur kölluðu Jósep og María hann Jesúm Krist.

III. I 2. Mós., 3, 13—14 segir Móses: "Þegar ég kem til Ísraelsmanna og segi þeim: Guð feðra yðvarra sendi mig til yðar, og þeir segja til mín: hvert er nafn hans, hverju skal ég þá svara? Guð sagði til Móses: Ég er sá sem ég er, seg Ísraelsmönnum: Sá sem er (það sem hann er), hann sendi mig til yðar. Þegar Jesús segir (Jóh. 8, 58): áður en Abraham var em ég, þá gerir hann fyrst og fremst kröfu til þess að hafa verið til á undan Abraham, sem dó meira en 1800 árum fyrir fæðing Krists, og tekur sér þar einnig nafn guðs, Íraelsmanna-nafnið: ég em sá sem ég em.

3. Það þarf klerkavit til þess, að fara að styðjast við aðra eins staði og þessa, til þess að sanna með þeim guðdóm Krists!

Þegar vér gætum að þá er þetta einn helzti staðurinn, sem Páll byggir á, að Kristur sé "frumgetningur allra skepna," en hvernig á guð að vera skepna, hvernig á skaparinn að vera skepna? Hvernig á hann að hafa verið getinn eða skapaður af einhverjum öðrum?

En nú skulum vér líta á annað, sem klerkum hefir yfirsést af því, að þeir hirða ekki um að vita meira en þeir þurfa.

Á bernskutíma sínum sem þjóðar, voru Gyðingar í Egyftalandi,

þar sáu þeir fyrir sér eldgamla guðsdýrkun, eldgömul musteri, því að Egyftar voru trúmenn miklir. Meðal guða þessara var gyðjan "Neith" eða "Net." Átti hún musteri mikið og veglegt í borginni Sais á Níláreyrum, skamt frá bústað Gyðinga. Á musteri þessu var letrað nafn hennar og útskýrt; þýðir nafnið eiginlega: ég varð af sjálfum mér, en útskýringin á musterisveggnum var þannig: Eg em alt, sem var og er og verða mun. Hver sem líta vill á það réttum augum, getur nú séð, að þarna eru upptökin til þessa dulda nafns á guði gyðinga: Ég em sá sem ég em. Og þegar klerkar segja, að Kristur geri kröfu til þessarar guðstignar, þá fer nú að fara út um þúfur röksemdaleiðsla þeirra.

IV. Jóh. 1. 1. kallar Krist "Orðið" og segir, að hann hafi í upphafi verið hjá guði og verið guð.

4. Ef að vér gætum að, þá segir ritningin líka (Opinb, 13, 8) að Kristur hafi krossfestur verið við sköpun heimsins, en guðspjöllin segja að hann hafi þá dáið. En nú sjáum vér, að eftir þessu hlaut Kristur að vera fæddur, vera krossfestur og deyja áður en nokkur maður lifði á jörðu, sem hlýtur að vera bull ag endileysa. Svo veit heldur enginn, hvað Jóhannes meinar hér með þessu orði, það næsta sem menn komast er það, að hann tekur þessa hugmynd, "Orðið," eftir heiðnum heimspekingi, Philo í Alexandríu, sem ekki kom til hugar að tákna Krist, sem hann ekkert þekti, með þessu orði.

V. Í Jóh., 10, 33, segjast Gyðingar grýta hann fyrir guðlast, og fyrir það, að "þú sem ert maður gerir þig að guði."

5. Það er undarlegt, að klerkar skuli vera að draga þetta fram. Eflaust virða þeir ekki málið fyrir sér á margar hliðar, er þeir gera það. Vér skulum nú setja sem svo, að Kristur hafi verið guð; þarna koma óvinir hans og brígsla honum um það, að hann hafi sagt, að hann væri guð. Hvað á guð nú að gjöra þegar þetta er borið á hann? Á hann að fara að skrökva því, að hann sé ekki guð? Á hann að fara undan í flæmingi og gefa þeim tvíræð svör? Væri það ekki guði samboðnara, að játa það hreint út, að hann væri guð, ef svo var, heldur en að fara að koma með vífilengjur? Þessi staður er því einhver sterkasta sönnun fyrir því, að Kristur sé ekki guð, einmitt af því, að hann kannast ekki við það. Þegar þessi ásökun er borin á Krist, þá fer hann einmitt að afsaka sig, fer að telja sér það til málsbóta, að ritningin kalli menn guði. Aldrei viðurkennir hann þó, að hann hafi kallað sig guð, heldur guðs son, "en því mátti ég það ekki, þegar sjálf ritning yðar segir til mannanna: eruð þér ekki guðir?" Svo bætir Kristur því við; "Megið þér þá

segja við þann, sem faðirinn helgaði og sendi í heiminn: Þú guðlastar, af því ég sagði: ég em guðs son? Hér kemur annað, Kristur segir sjálfur, að "Faðirinn" hafi helgað sig, en þá gat hann ekki verið heilagur áður; hann segir að hann hafi sent sig, en þá var hann ekki fyllilega sjálfum sér ráðandi, en það getur maður ekki hugsað um guð. Allir kristnir menn kalla sig börn guðs, eins vér unitarar, vér köllum oss syni guðs og dætur. Allir kristnir menn trúa því, að hinir miklu menn heimsins, sem hafa einhvern stóran boðskap að boða heiminum, séu sendir af guði, — uppfyltir guðlegri andagift. Svo höfum vér og fleiri menn, sem áttu að vera helgaðir af guði, en voru þó ekki guðir. Jeremias segir um sjálfan sig: "Áður en ég (guð) myndaði þig í móðurlífi þekti ég þig, og áður en þú komst af móðurlífi vígði ég þig." Þarna er einn getinn af guði, sem þó er ekki guð, þarna er einn vígður eður helgaður í móðurlífi, og er þó ekki guð.

Þessir staðir verða því ekki styrkjandi, heldur gersamlega eyðileggjandi guðdóm Krists. [Framhald.]



# AÐSENT.

## Alfullkomin stefna Sameiningarinnar.

Í September nr. "Sam," 1887, stendur eftirfylgjandi klausa:

"Vor öld hefir oft verið kölluð efasemdanna öld. Sjaldan hefir verið hugsað eins rækilega um hinar ýmsu gátur lífsins eins og á vorum tímum. Ótal spurningar hafa verið bornar upp, en fáum svarað. Það er eins og það sé ætlunarverk aldarinnar að spyrja og bera upp gátur. Menn hafa efast um flest það, er þeim fanst áður að þeir hafa fengið úrlausn í. Menn leita eftir nýrri úrlausn og nýjum rökum. Margir álíta þennan efa vera mein vorrar aldar. Má vera að svo sé. En hann hefir sína þýðingu eins fyrir það. Það er drottinn sem lifir í verki aldanna. Ef ein öldin efast, þá trúir hin. Ef ein öldin spyr, þá svarar hin. Vér skulum því ekki deila á vora öld þótt hún efist og spyrji."

Að fáum spurningum aldarinnar hafi verið svarað, mun satt vera í guðfræðislegu tilliti, því náttúruljós aldarinnar er það bjartara guðfræðisljósinu, að það — hið síðara — hverfur algerlega, sem mánaljósið fyrir hádegissólinni. Og hvað veldur þessu? Sjálfsagt "drottinn í verki aldanna." Því það sýnist öllu öðru um megn. En

náttúrufræðingarannsóknir og uppfindingar hafa svarað mörgum spurningum aldarinnar, sem þjóðaframförin sýnir. Af ávöxtunum skulu menn þekkja hina sönnu kennara.

Í September nr. "Sam." 1895, stendur svo þessi grein :

"Þetta er nú víst alt saman rétt og satt. En á þetta að ganga svona alveg þegjandi eins og verkast vill — afskiftalaust? Á hinn "materielli" straumur að fá að velta sér yfir þjóðlífið, og skilja þar ekki eftir annað en flagið eitt, án þess að honum sé nokkurt viðnám veitt? Á kyrkjan þegjandi að horfa á það, að pólitík og hversdagsvafstur taki svo upp hugi manna, að það útrými nálega öllu öðru? Ef það er gert, getur þá ekki sá tími komið, að það andlega líf, trúarlífið sem nú lifir, verði eftir órjúfanlegu náttúrulögmáli, dautt og dofið?"

Hvað er nú "drottinn í verki aldanna" sem ýmist lætur þær efast eða trúa? Eða var það "hinn materielli straumur," sem kom Constantin keisara mikla til að aftaka sabbatsdag Gyðinga, en í staðinn helga kristindóminum sunnudaginn, helga dag sólguðsins Júpíters? Var það hinn "materielli straumur," sem kom 318 biskupum á Niceu-þingi til að rífast og berjast svo grimmlega um guðdóm Krists, að sumir mistu annað augað? Var það hinn "materielli straumur," sem kom kyrkjunni til að finna upp allskonar píslir og pintingar fyrir þá, sem ekki gátu verið henni samdóma í öllu? Var það hinn "materielli straumur," sem kom Lúther til að snúast móti allsherjar kyrkjunni og setja sína kyrkjudeild undir veraldlegt vald, og með því gera hana að ríkisambátt, en vita þó, að ambáttarsonurinn gat ekki tekið arf með syni hinnar frjálsu? Var það hinn "materielli straumur" sem kom á stað 30 ára stríðinu og gerði lönd og þjóðflokka sem "flag eitt"? Nei, kyrkjan kendi mér, að alt þetta hefði verið gert fyrir kristindóminn "í nafni hins þríeina guðs." Og ég spyr enn: Hvað er "drottinn í verki aldanna" sem vér eigum ekki að deila við? Er hann ekki "hið órjúfanlega náttúrulögmál" sem "Sam." sakar fyrir, að "drepi trúarlífið"? Væri því nauðsynlegt að taka hann fastan og ef unt væri setja hann á lúterskan guðfræðisskóla, og með því steypist hann í annan farveg, eða skera hann svo hann stýflist.

Mountain 24. Október 1895.

JÓNAS KORTSSON.

---

# EVA HOLLY.

(Smásaga, þýdd úr ensku).

---

"Ég elska þig, Eva Holly viltu verða konan mín?"
Loksins stundi hann því fram, rétt eins og honum kom það til hugar á þessu augnabliki. Hann hafði sagt þetta sama, sem allir menn segja undir líkum kringumstæðum; og hún var búin að segja; "Já," og svo gekk hann heimleiðis, einhvernveginn í draumi og fu ðaði sig á því, hvernig því væri varið, að þessi mikla sæla skyldi aldrei fyrri hafa fallið sér í skaut, nú væri hann þó kominn af æskuskeiði. Hann ætlaði sér, að verða henni svo góður; hann ætlaði sér, að verja auði sinum til þess, að gera hana farsæla, þessum auði, sem honum alt til þessa hafði ekkert þótt til koma. Hann skildi ekkert í því, hvernig þessi hamingja skyldi hlotnast sér — sér fremur en öllum öðrum.

En alt í einu heyrði hann tvær skerandi raddir. Rétt á undan honum gengu stúlkur tvær og leiddust. Voru þær á leið til kyrkjunnar, með sína sálmabókina hvor undir hendinni. Þær voru að tala saman.

"Hún er viss með að ná í gamla piparsveininn hún Miss Holly — hún er alveg viss. Það er stúlka, sem giftist til þess, að ná í peninga. Hún vildi ekki Patterson unga — sem þó var réttur maður handa henni — af því, að hann var fátækur, og nú hefir hún úti allar klær, til þess að ná í herra Cartwright, af því, að hann er nógu ríkur."

"Svo er það" sagði hin. "Henni þykir ekkert vænt um hann; en hana langar til að ná í fallegu húsin hans, í hestana hans og vagnana og margt annað ágæti. — Það hefir dregið hana, en ekki Cartwright gamli."

Þær gengu nú áfram, en Cartwright nam staðar, sem þrumu lostinn. Var þetta virkilega satt? Þessar stúlkur bjuggu og borðuðu í sama húsi og Eva og hlutu að hafa nóg tækifæri til þess, að þekkja hana. Var það nú virkilega satt? Hafði hún tekið honum af þeirri ástæðu, að hann var ríkur?

Þannig var fræi óláns og ófarsældar sáð þar, sem blómhnappar gleðinnar voru nýlega farnir að brjótast út, og Charles Cartwright fann það vel, að hann mundi í langa tíð ekki lifa aðra eins gleðistund og hann hafði lifað nú fyrir skömmu.

Þegar heim kom, leit hann í spegilinn, og sá þá, að fyrst hafði hann aldrei sérlega fríður verið, og nú var dögunum farið að halla,

Augun voru ekki eins fjörleg og skörp og áður fyrri, og innanum hið svarta hár hans voru hér og hvar farin að gægjast fram hvít hár á stangli.

"Kanske það hafi verið sökum peninga minna!" stundi hann fram og settist niður, þetta hið fyrsta kvöld eftir heitorð þeirra, fullur óánægju og kvíða.

Hvað átti hann nú að gera, til þess að losna við þessar hugsanir? Hvernig átti hann að reyna hana? Honum komu til hugar gömlu æfintýrasögurnar, sem hann hafði haft svo gaman af að lesa áður fyrri. Átti hann nú að fara eins að, og leika einhvern sögukappann? Honum féll það vel í geð. Ef að hún skyldi ekki elska hann, þá væri betra, að það slitnaði upp úr á milli þeirra strax; og svo lyfti hann lokinu á skrifborðinu sínu og tók sér pappírsörk og penna í hönd.

"Kæra Eva," skrifaði hann; "síðan ég hét þér hönd og hjarta, elskan mín! hefi ég fengið vondar fregnir. Bankinn, sem ég átti alla peninga mína á, er orðinn gjaldþrota. Ég er félaus maður, ég hefi tapað svo miklu, að þegar ég er búinn að ljúka öllum skuldum, þá á ég bókstaflega ekki neitt. Þegar nú svo er komið, þá sé ég, að það er skylda mín, að veita þér fult frelsi til þess, að losna við heitorð þín. Ég elska þig engu minna, en áður, og ef að þú getur fengið af þér, að láta þér nægja ást gamals manns, þá verð ég sælli, en orð mega lýsa; en ég vil ekki, að þú bindist mér undir neinum fölskum vonum. Ég hefi verið hreinskilinn og bið þig, að vera það líka. Þinn einlægur

Charles Cartwright,

"Kunnugum manni mundi þykja þetta eignatap fremur undarlegt" mælti hann við sjálfan sig. "En stúlkur þekkja ekkert til þessara hluta. Hún trúir mér, og ef að hún hefir gengist fyrir auðnum, þá segir hún mér upp, og ég vil það heldur, en efast um hana. En ef að hún sannarlega elskar mig, ef að hún er fús á, að verða konan mín, — ó! hvað ég verð þá sæll." Svo læsti hann bréfinu og fór með það sjálfur á næstu póststöð.

Honum fannst hann nú vera hálf óstyrkur á taugum og kvíðafullur og reikaði því um strætin, og ætlaði að reyna að ganga það úr sér. Hann hálf sá eftir, að hafa gert þetta, og óskaði með sjálfum sér annað veifið, að hann hefði ekki látið efann leiða sig til þessa, en hefði borið fullkomið traust til Evu. En skeð var skeð, og það var ekki hægt, að kippa því upp aftur. Svo gekk hann áfram og gleymdi tímanum, hve seint var orðið, eða hvort fætur hans

fluttu hann um borgina, þangað til, að hann rankaði við sér, og sá, að hann var kominn á hættulegan stað í borginni.

Hann snéri nú við og ætlaði að hverfa aftur sömu leið, en áður, en hann kæmist til næsta strætis, var hattur hans laminn niður fyrir augu honum og tveir fantar flugu á hann.

"Það er gamli ríki piparsveinninn frá — stræti" sagði annar. "Það borgar sig að ræna hann. Vertu kyr og þá skulum við hlífa lífi þínu. En ef að þú hreifir þig, þá skaltu deyja, sem hundur."

Og í þvi var gripið fyrir kverkar honum.

En Charles Cartwright var ekki sá maður, að hann gæfist upp að óreyndu fyrir annari eins árás. Hann varðist, og með því, að hann var sterkur vel, þá gat hann varpað öðrum þeirra til jarðar. En þá gat hinn komið honum undir, og svo veltu þeir honum á bakið og héldu fyrir kverkar honum.

Hávaðinn hafði þó vakið einhverja á strætinu, gluggum var lokið upp og kallað á lögregluna. Þorpararnir urðu hræddir, slitu af honum úrið, tóku af honum demantsnálina hans, peningapyngjuna hans, og það, sem hann hafði verðmætt á sér, lömdu hann svo í höfuðið með barefli og stukku svo burtu alt hvað fætur toguðu, en létu hann liggja þarna meðvitundarlausan á strætinu.

Þegar hjálpin kom, var orðið um seinan að gera annað, en flytja hann á næsta spítala, og komust menn þar að nafni hans af bréfi, sem fannst á honum. En mjög voru menn vondaufir um, að hann lifði af hrakning þenna.

Fréttir þessar fékk Eva Holly rétt þrem stundum eftir, að hún hafði fengið bréfið, er átti að reyna hana, hvort hún elskaði hann, manninn, sem nú lá þarna, án þess að bera nokkurt skyn á ást eða hatur, en seinna skulum vér skýra frá því, hvernig hún tók fregnum þessum.

Eftir að mánuður var liðinn frá atburði þessum, opnaði Charles Cartwright fyrst augun. Hann lág í litlu rúmi, í litlu herbergi, er hann hafði aldrei séð, og fannst honum hann vera veikur og magnþrota sem barn. Lengi var það, að hann gat ekkert munað, hvað skeð hafði, en loksins mundi hann eftir viðureign sinni við ræningjana.

En hvernig stóð á því, að hann skyldi ekki vera á eigin heimili sínu, í hinum rúmgóðu herbergjum sínum, fyrst að hann var ekki á spítala neinum? Það var eitthvað undarlegt við þetta. Og hvar var Eva, og vissi hun hvað fyrir hann hafði borið?

Þegar hann var að velta þessum spurningum fyrir sér, voru

dyrnar opnaðar hægt og hægt og inn kemur Eva sjálf, reyndar föl og mæðuleg, en fegurri en nokkru sinni áður. Við sjón þá hljóðaði hann upp af gleði og vafði handleggnum utanum mitti hennar.

Á sama augnabliki lág hún grátandi upp við brjóstið á honum.

"Þú þektir mig þá Charles" mælti hún. "Ó! ég gat varla trúað því, að þetta augnablik mundi nokkurntíma fyrir koma. Ég er sæll; en ég gat nokkurn tíma vonast eftir. Þú lifir nú. Þú lifir héðan af og verður frískur og lukkulegur, elskan mín!"

"Já, ég ætla að lifa" mælti hann. "Vertu ekki að gráta elskan mín, en segðu mér frá öllu. Ég man ekkert, síðan þorpararnir lömdu mig seinasta höggið."

"Manstu ekkert?" spurði hún.

"Nei" svaraði hann. "Ekkert nema drauma mína. Mig dreymdi meðal annars, að við værum gift."

"Það var sannur draumur Charles" sagði hún og tók í hönd honum.

Á vinstri hendi á löngutöng, bar hún giftingarhring, sem hann hafði borið, en móðir hans átt áður.

"Þegar ég kom á spítalann og þeir sögðu, að þér væri ekki lífs von" mælti hún, "þá sagði ég þeim, að ég væri heitmey þín og óskaði eftir að mega vera hjá þér, og stunda þig. Við vorum gefin saman. Þú virtist þekkja mig, og svaraðir af fullu ráði og svo varð ég konan þín. Þegar hægt var að hreifa þig, flutti ég þig heim og þannig stendur á því, að þú ert nú hérna.

Hann tók í hendina á henni.

"Elskan mín" mælti hann. "Guð blessi þig; en hví er ég hér? Þetta er ekki heimili mitt."

Eva leit á hann meðaumkvunaraugum.

"Manstu ekki eftir því hjartað mitt? Æ, vertu þá ekki að spyrja að því. Þegar þér batnar, þá skal ég segja þér frá því. Þetta er mitt heimili. Ég fékk þetta hús eftir afa minn. Það var þó betra, en greiðasöluhús.

Nú fór hann að ranka við ýmsu.

"Það getur ekkert gert mér" mælti hann "segðu mér sannleikann."

"Þú skrifaðir mér, að þú hefðir tapað öllum eignum þínum," mælti hún. "Ég vissi þá, að þú áttir ekkert heimili, varst félaus þegar þér lág mest á; en ég átti svolítið, skaltu vita; það var nú ekki mikið, en ég ætlaði að reyna, að láta það duga okkur báðum. Þessvegna flutti ég þig hingað, og þessvegna giftist ég þér á þenna óvanalega hátt."

Við þessi orð hrundu tárin niður kinnar hans.

Eva laut niður að honum.

"Gráttu ekki" mælti hún. "Hvers virði er auðurinn þegar öllu er á botninn hvolft? Við höfum nóg til þess að lifa á, og við elskum hvort annað."

En Charles Cartwright var að gráta af því, að hann skyldi nokkurn tíma hafa rengt hana.

Hann sagði herni sannleikann og álasaði sjálfum sér mjög. En Eva fyrirgaf honum fljótlega.

"Hvernig gatst þú verið viss um mig" sagði hún. "Stúlkur, sem mér eru engu síðri, giftast fyrir peninga oft og iðulega; og oft er það, að hjartað svellur af harmi við vondar fortölur. Þú þekkir nú hjartalag mitt Charles, eins og ég hefi einlægt þekt hjartalag þitt."

En hann kyssti giftingarhringinn konu sinnar aftur og þakkaði guði fyrir hana.

Hann þakkaði honum oft seinna meir fyrir þessa gjöf, þegar hann fékk heilsuna aftur, og þau lifðu í öllum þeim nægtum, sem auðurinn getur veitt, því að að dýrmætari en allar eigur hans var Eva konan hans.



# BIBLÍA HINNA FORNU EGYFTA.

Nú eru fulltrúar breska fornleifafélagsins nýbúnir að gefa út "Bók hinna dánu" eður biblíu forn-Egyfta. Bók þessi er lík gömlu biblíunni okkar að því leyti, að hún er samansafn af mörgum bókum, eftir marga rithöfunda, á ýmsum tímum. Klerkar í Sais á Níláreyrum söfnuðu ritum þessum saman í eina bók um 600 f. Krist, um sama leyti og mikill hluti gamla testamentisins var ritaður. En sá er munurinn að löngu áður höfðu prestar Ammons, á 17 öld fyrir Krist, safnað ritum þessum og voru þau skráð á dánarskjöl Ani og fundust þau í gröf hans við Thebuborg, en þar voru þau niðurlögð um 1500 fyrir Krist, eða nokkru fyrir fæðing Mósesar. Ritsafn þetta fékk breska fornleifafélagið 1888 og þýddi Dr. Budge það.

Bók hinna dánu er nokkurskonar handbók í málum annars heims. Segir hún frá lífinu eftir dauðann. Var hún lögð í kistur átinna manna og áttu þeir að lesa hana sér til leiðbeiningar er þeir

ferðuðust um land ódauðleikans. Egyftar trúði því ekki, að menn gætu öðlast eilífa sælu, þegar er menn dæju, heldur þurfti til þess langa tíma, og þurfti sálin að hreinsast áður frá öllum óhreinleika Smátt og smátt átti svo hinn jarðneski líkami að breytast í andlegan líkama og ódauðlegan.

Þessi bók Egyfta hefir inni að halda reglur fyrir því, hvernig menn skuli komast til sælunnar bústaða, og lýsingu á lífi hinna farsælu í ríki himnanna. Þannig stendur þar meðal annars: "Hann (hinn dáni) fer til hins mikla vatns, mitt á völlum friðarins. Þar sitja hinir máttugu guðir, og þeir, hinir miklu, sem aldrei bregðast, gefa honum að eta af *lífsins* tré, *sem er mitt í aldingarði* (*paradís*) *Guðs*. (Hér sjá menn upprunann að "lífsins tré í aldingarðinum Eden.")

Í biblíu þessari er kend hin háfleygasta eingyðistrú, kenning um eina æðstu veru, sem er óendanleg að mætti og kærleika, um veru sem stendur í samskonar sambandi við mennina, sem faðir við börn sín. Að öllum líkindum hefir bók þessi verið þekt á Gyðingalandi og í Alexandríu. En undarlegt er það, að mentaðir menn skuli enn vera að reyna að berjast við að trúa því, að hin tíu boðorð og eingyðishugmynd Gyðinga hafi verið boðað þeim einum sérstaklega og yfirnáttúrlega, þar sem þeir voru búnir að dvelja fleiri hundruð ár hjá Egyftum, er *þá* þegar höfðu hvorttveggja þetta, boðorðin og hinar háfleygu eingyðishugmyndir. Það er eftirtektavert, að þarna lengst fram á öldum skuli menn hafa haft þessar hugmyndir um lífið eftir dauðann og vonast eftir, að fá þar uppfyltar vonir sínar og leyst ráðgátur þær, sem menn nú eru í vandræðum með að leysa.



## MOLAR.

Ekki er trútt um, að Canadamenn séu prestriðnir í meira lagi því að nú hafa þeir nýlega eða póstmálastjóri þeirra bannað, að flytja blað eitt frá Bandaríkjunum í pósttöskum Canada, það er blaðið TRUTH SEEKER. Segir póstmálastjórinn, að blaðið sé svo siðferðisspillandi (demoralizing), að það megi ekki hingað koma, til þess að spilla hinum útvalda Canadalýð. Að framan og aftan á blaðinu ern myndir, skrípamyndir, sem gera kyrkjuna, kenningu hennar og kennimenn hlægilega. Það er vitaskuld, að TRUTH

Seeker ætti ekki að hafa sumar skrípamyndirnar. Blaðið vinnur ekkert við þær, en, að gera svo mikið, úr því, að banna blaðið, er fáheyrt. Hvar er nú prentfrelsið, sem þeir stæra sig svo mikið af? Hvar er nú trúfrelsið þeirra? Hér vestra hleypa þeir inn Mormónum með fjölkvæni sínu, en eystra gera þeir upptækt blað eitt, sem mestmegnis flytur setningar og kenningar úr ritningunni, þeirra eigin heilögu bók. Það er eins og ætti að fara að vekja upp nýja öld brennu og trúarofsa; eins og séra Cotton Mather væri risinn upp úr gröf sinni, en hann barðist mest fyrir brennu galdra kvenna í Ný-Englands-ríkjunum fyrir aldamótin.

---

Mörgum löndum vorum er kunnug hin heimsfræga vísindakona, frelsispostuli og rithöfundur Annie Besant. Alla sína æfi hefir hún barist fyrir frelsi í trúmálum og hafnað innblæstri og rétttrúnaði með öllum þeirra kreddum. En því merkilegra er það, að nú er dóttir hennar, búsett í Australía nýlega gengin inn í hina kaþólsku kyrkju þar. Það er athugavert þetta fyrir þá, sem leika vilja lausum hala og eru fulltrúa um, að hvorki þeir né afkomendur þeirra muni krjúpa að stóli klerka og kennivalds. Vér munum kanske fara nokkrum fleirum orðum um þetta seinna.



# KAFLAR ÚR BRÉFUM.

(Til ritstj. eða féhirðis Dbr.)

---

*Mountain 22. Okt. 1895.*

......Hjarranlega þakka ég yður fyrir Dagsbrún. Hún er það eina íslenzka kyrkjublað, sem er fræðandi, hreinskilið og sannleiksríkt. Það er gleðilegt fyrir söfnuð yðar að sjá jafn fagran og sterkan ávöxt renna upp skjóli sínu, sem enginn annar íslenzkur söfnuður hefir í ráðist. En sannleikurinn gerir alla sína frjálsa og styrka. Enda munu aldir og óbornir árna söfnuðinum góðs, fyrir slíka einlægni og sannleiksást til allra landa sinna.............

---

 Næsta nr. af Dagsbrún kemur út um miðjan þenna mánuð.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: Magnús J. Skaptason.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: Magnús Pétursson.
S.-W. Corner Ross Ave. & Nena Str.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.